# Auglýsing.

Vegna adsígandi aldurdóms lasleika míns, hefi eg fastrádid, í nærstkomandi fardøgum, l. G., ad fella Utbú þad, er eg í full 20 ár haldid hefi á eignar-jørdu minni Kleppi, en annadhvert selja þessa 20 hundrada jørd, hverrar töduvøllur nú í 20 ár hefir stórri rækt og framførum tekid, einkum vid øbluga umgirdíngu hans med miklum tví-hlødnum grjótgardi kríngum mest allt túnid, en vænum torfgardi tví-hlødnum um nockurn part, þeim, er mér best í hana býdur, innan nærstkomanda 20. Febrúar: þessa árs, ellegar — bjódist mér ei adgengilegt kaupverd hennar ádur — þá ad byggja hana ómagafáum dugnadar-manni, helst formanni, er fleytir til fiskiródra skipi húsbóndans til helmínga, og gjørir þad þanninn út mót honum.

Alkunnugt er: ad jørdin Kleppur er einhver hin hagamesta útrýmis jørd sumar og vetur í Seltjarnarness-hreppi, hefir þarhjá til ad bera ótæmanlegt, besta mótak, móvøll besta, en stutta heimreidslu og eins til sjóar, og liggur haganlega vid sjó til allra adrátta, abla og eldividar flutnínga til sølu, en er þarhjá hin líklegasta til talsverdra Lax- og silúngs-veida, setin af dugnadarmanni, sem þartil vildi kostnadi nockrum og ómaki verja.

Þeir, sem jørd þessa girnast vilja til eignar eda ábúdar, vildu láta sér þóknast innan 20ta Febrúar: þ. á. ad tjá mér þeirra hærsta bod til hennar eignar; en þeir, sem hana til ábúdar girnast, ádur um ábúdar-skilmála hennar vid mig ad semja, þá eg, l. G., eptir sagdann dag, mun hana einhverjum selja edur byggja.

Videyar Klaustri, 20. Janúar. 1833.

M. Stephensen.